Eitt nýtt dæmi til þeirrar blessunar, sem Guds ord verkad getur, sýndi sig, fyrir ecki mörgum árum, á manni einum, sem ad sönnu var miklum náttúrligum sálargáfum gíæddur, en, því midur! var samt einn Guds spottari og lastafull manneskja. Hann vogadist til ad mögla á móti Gudi, þegar eitthvad ecki ad óskum géck, og sýndist rétt albúinn til ad forherda hjarta sitt gégn drottni, eins og Pharaó fordum. Hans djúpt inngróni vani, ad blóta og sverja, var svo frekur, ad hann sjaldan gat talad svo eitt ord, ad hann ecki bætti blótsyrdi vid; og þaradauki var hann brádur til reidi, svo allir höfdu ótta af hönum, á hans heimili. Nú vard hann sjúkur, og einn af Bibliu-félagsins medlimum í Lundún vitjadi hans. Hann var þúngt haldinn, og hans ádur hraust-bygdi líkami var ordinn vesæll og úttærdur. Hans handverk hafdi verid ad steypa blý; en af því í blýinu býr einslags hulid eytur, — vid hverju menn þurfa vel ad vara sig — hafdi þetta, med sinni skadligu verkun, svo þreyngt ser inni alla hans líkama byggingu, ad hann var nærri í daudann kominn.

En þó menn bidu hönum nú Guds ord, þá vildi hann ecki lesa þad. Eptir nockra mánudi lidna, heimsókti sami madur hann aptur í annad sinn. Þá sýndist sem sá vesæli madur findi til þess, ad hans lifs endalykt væri í nánd. Daudinn stód nú máladur í hans

andliti, og syndir hans hofdu, sem onnur fjandmanna fylking, sett sig í ljós fyrir hans samvitsku augum. Þó vildi hans drambsáma sála ennnú ecki audmýkja sig; hann bardist vid orvæntingu, og krafdist sjálfur, midt undir óttaligustu formælingum, Guds hefndar straffs yfir sitt syndafulla hofud og hjarta. Kona hans var ecki eins sinnud og hann; hún hafdi, til blessunar sálu sinni, lesid biblíuna; og svo dóttir hans, ein lítil stúlka 9 vetra gomul, hafdi fundid gledi út af biblíunni; og þetta barn var nú mikid ángurbitid út af ástandi fodur síns, þad bad Gud inniliga ad frelsa sálu hans, og trúdi í sinni barnligu einfeldni, ad, ef hann ad eins vildi leita sér einu sinni, ad lesa nockud hjá sér af Guds ordi, þá mundi þad gjora gott sálu hans. Madurinn elskadi sína litlu dóttur; svo þó kona hans, —módir barnsins, —vogadi opt ecki, vegna hans óstjórnligu sinnis freksu, ad koma nærri honum, þá tók hann alltid móti dóttur sinni med vinsemi, og lét sér ecki mislika vid hana, þó hún mildiliga setti honum fyrir sjónir, ad hann væri ofhardur vid módur sína. Nú af því hans litla dóttir var svo full af sterkri laungun eptir frelsi hans ódaudligu sálar, notadi hún sér þad tækifæri, ad hann var svo gódur vid hana, ad lofa henni vid sig ad tala. Þar fyrir fékk hún komid því lokfins til vegar, ad fadir hennar leifdi henni, ad hún mætti lesa fyrir sér nockra capitula úr biblíunni; med hvorjum lestri hún lét þó alltid fylgja þá hjartanligu barnafrómligu bæn til Guds, „ad hann vildi vyrdast til ad blessa sinn sjúka fodur, med sínum nádar-ríkdómi!" Eptir lánga, en þó þolinmóda bid og eptirvæntingu, fáust umsídir nockur spor til betrunar hjá þessum sjúka manni. Hann tók ad verda kyrlátur,

vidmóts=blídur og þakklætis=fús við þá sem þjónudu hønum, og hans óstjórnliga breytni ádur, samt hans blót og formælingar, hætta ad øllu leiti; svo hann tók nú sjálfur til at lesa Guds ord, og heimfæra þess meiningu uppá sjálfann sig. Og — hvad skédi? „Sjá! hann tók ad bidjast fyrir.“ Þetta vard hin stærsta gledi vinum hans, bædi skildum og vandalausum. Þessu héldt hann sídan áfram medan hann tórdi; svo hann loksins deydi í fridi; eptir þad hann med bæninni, feingid hafdi, ad von sinni, þá fullvissu hjá sínum Endurlausnara, ad hann, eptir sínum fyrirheitum, vildi hann til nádar taka, jafnvel þó hann í hærsta máta væri straffs makligur syndari, fyrir hans augum.

Svona, kjærir brædur! fer Gud med þá, sem af øllu hjarta ydrast, þó seint sé. En ad þeirra ydran sé hrein, sannast af því: a) ef þeir af øllu hjarta taka ad hata sjálfa sig vegna syndarinnar, og skyrrast ecki vid, ad láta adra þad til sín heyra, eins og ræninginn á krossinum, og jafnvel áminna adra til ad umvendast. b) Þarnæst, ef þad er þeirra alvarlig laungun, ad heyra Guds ord hjá sér lesid, og svo heimfæra þess efni uppá sálar ástand sitt; c) ef þeir þar hjá hafa alvarligt áform til ad betrast bædi innvortis og útvortis, ef Gud ann þeim leingra lífs; og d) loksins, ef þeir ecki afláta med brennandi bæn ad hrópa til Guds, um fyrirgéfningu synda sinna, vegna Jesú Christi forþénustu, og halda svo því bænarhrópi áfram allt í daudann, svo leingi Gud géfur þeim vit og rænu. Þessa branda kann Guds miskunsemi ad hrífa út úr eldinum, og frelsa þá frá eilífri fordæmingu. En varist þó allir, í Guds nafni, ad draga sína ydrun

undan í því trausti, þar ótøluliga margir audvaralausir syndarar hafa svo burtu dáid, ad þeir hafa ecki þessa umbreytingu tekid. Og hvørsu hrædiligt er ad hugsa til ástands sálna þeirra í eilífdinni!

---

Annad dæmi uppá Guds ords verkun sýnir frásaga eins rússisks manns, sem verid hafdi strídsmadur, og feingid lífs-hættuligt sár í oruslu; hann seigir sjálfur frá þánkamáta sínum svoleidis: Fyrir nockrum tíma sídan þeinkti eg um eckert annad, enn þá stóra þjáníngu, sem eg leid af sári því eg feingid hafdi, og um þad, hvørt eg mundi ei géta ødlast medøl, til ad lina mér þá pínu, sem eg tók út. Og þegar eg frétti, ad herramadur einn, sem eg þeckti, var nýliga í Petursborg, flýtti eg mér á fund hans, til ad komast eptir hjá hønum: hvørt hann hefdi ecki heyrdt gétid um neinn dugligann lækuir, sem kynni ad hjálpa mér og græda sár mitt. Þegar hann hafdi svarad mér uppá þad, þá gaf hann mér ad skilnadi litla smábók, sem høndladi um „bibliu-félaganna augnamid." Eg las svo þennann rttling ígégn optar enn einusinni, og fann ad mitt hjarta hrærdist og vaktist, af rádum þeim, sem sú litla bók leggur, hvørri þeirri manneskju sem hana les, og vill eptir því taka, nefniliga svoleidis: „ad madur skuli lesa Guds ord (einkum heil. ritníngu) kostgæfiliga, og láta þad uppfræda sig, svo hann géti forbetrast og umvendt sér, til þess hann verdi sannlucku ligur í þessum heimi, og sídan sáluhólpinn eiliflíga." Vid ad lesa smárit þetta, var sem dagur rynni í sálu minni, því ádur hafdi þar drottnad myrkur og nótt heimsligra og holdligra þánka, en sálarinnar naudsynjum

hreint gleymt, og undirbúníngi til eylífðarinnar. Áður vissa eg lítið um útbreiðslu og verkun Guðs orðs í heiminum, eða hvað gott af henni flyti og fljóta mætti; en þegar eg sannfærðist um það af ritlíngi þessum, hrestist hjarta mitt mikiliga þarvið, og upptendraðist svo af trausti til Guðs miskunar, að eg gleymdi rétt mínum eigin þjáníngum; svo jafnvel bæði sjálfann mig, og aðra mína kunníngja, furðaði stórum þar yfir. Eg hætti að kvarta yfir því sem eg leið, og með þolinmæði afbar þá ákafligu pínu, sem eg tók út, þegar verið var að skéra upp sárin á líkama mínum, og draga út úr þeim bein og dautt hold. En þetta litla rit huggaði mig kroptugliga með sínum lærdómum; eg áleit það fyrir þann dýrmætasta skeink, og sýndi það öllum þeim sem til mín komu, og sagði þeim frá þeim dásamligu verkunum, er það framleidt hefði í sálu minni. Af þessu upporfuðust margir, svo þeir girntust að fá sama ritlíng til eignar, en eg gat ekki uppfyllt ósk þeirra, því eg átti ekki nema eitt stikki af honum sjálfur. Þeir báðu mig ogsvo um biblíu; af því að ritlíngur þessi vísar mönnum að öllu til hennar, svo sem þess eina og sanna brunns allrar blessunar, bæði fyrir sálu og líf. En eg átti einga biblíu í eigu minni, og hafði valla séð hana um æfi mína; en eg lofaði eg skyldi skrifa því rússiska Biblíufélagi til, og beiðast að fá nockrar frá því, og svo nýa testament á parti, í ýmisligum túngumálum.

Til að betala bækur þessar höfðu vissir menn gjördt frivilljugt samlag. Nú var það mín hjartans ósk að géta ekki einasta sjálfur eignast eina af þessum háblessuðu bókum, heldur og svo líka að géta útvegað þær handa öðrum. Hér höfum vér þá, kæru lesendur!

einhverja hina sterkustu rökſemd til þeſs, hvílíkur lifgandi kraptur að í Guðs orði býr, og hvílíka verkun að leſtur þeſs haſt géti í hjarta manns. Það voru að eins ſáeinar greinir úr ritníngunni, ſem ſmárit það innihéldt, ſem áður-nefndur maður eignaðiſt; en af því hann las það með ſannri gaumgjæſni, þá gátu þó þeſsir ſmálækir, úr brunni heil. ritníngar, ſvoleiðis hreſst hans anda, og uppvakið hjá hönum lifandi trú, að hann varð ſvo glaður í Guði, að hann gleymdi hreint öllum ſínum þjáníngum, og bar þær með ſannri þolinmæði. En eigi nú Guðs orð að verka þetta hjá oſs, ſem höfum ſjálfann brunninn, nefnilíga heil. ritníngu, vor á meðal, og marga læki, ſem út frá þeſsum brunni leiddir eru, í ýmſum góðum Guðs orða bókum, þá hljótum vér að leſa hana ydugliga, leſa hana með heitri bæn til Guðs, og ſárri laungum eptir því, að ſannleikur ſá ſem í henni er, géti oſs frelſað; því ef vér förum ekki ſvo að leſa hana, gétur leſtur hennar oſs ekki að notum komið; eins og, því miður! optlíga ſannaſt. En ſamt er útbreiðſla ritníngarinnar (og evangeliſkra ritgjörða), eitt það beſta verk, ſé það gjordt með réttu hugarfari — en ekki ſér til frembar eður ſjárafla; — því ef það er gott verk, að géfa húngruðum fæðſlu eður ſjúkum lækníſdóm fyrir líkamann, hvílík velgjörð má ekki hitt metaſt, að leitaſt við að metta ſálirnar með lífſins brauði, og géfa þeim auðlíga ſjúku þann lækníſdóm, ſem bætt géti öll þeirra ſálarmein, ef þeir brúka hann réttilígà. Og ſannarlíga meigum vér hugga oſs við þá von, að Guðs orð heſur þeſsa verkun, víðar enn vér komunſt að raun um í þeſsu líſi; ekki að eins meðal þeirra ſem Chriſtnir kallaſt, heldur og ſvo — og það merkilígaſt

— medal ýmsra heidinna þjóda, hvörjum Evangelíum hefur bodad verid. O sælir eru þeir, sem til þessa blessada verks af hreinu hjarta styrkja; Gud mun ecki láta erfidi þeirra og tilkostnad, í upprísu réttlátra, ólaunadann verda! Þeinkjum eptir þessu í Jesú nafni; því þad er óseiganliga mikilvægt!

---

Þad þridja dæmi uppá sama efni finst í einu sendibréfi frá vissum manni til þess engelska Biblíu-félags, hvar svo stendur skrifad: Eg óska eg gjæti, sem eg vildi, látid í ljósi mitt þacklæti, fyrir mér tilsendar Bibliur og Ny-Testament.

En leifid mér ad segja frá nockrum tilfellum sem skéd hafa vid þeirra útdeilíngu. Einn mikid fátækur gamall madur, sem var ad trúarbrøgdum róman-kaþólskur edur papiskur (sem er nærstumbil þad sama), hvor ed heima átti í einum landsbæ, hér í nágrenni vid mig, kom, fyrir stuttu sídan, inní eina búd, hvar eg var fyrir, og hann beiddist ølmusu. Eptir þad eg talad hafdi litid eitt vid hann, um ástand hans, géck eg í einrúm med hann afsídis, og spurdi hann um sitt sálar ásigkomulag.

Þar uppá svaradi hann mér: ef eg hefdi alltíd lifad, eins og eg lifi nú, þá þyrdi eg ad vonast ad komast í himnaríki; en minar úngdóms syndir og íllska sú, í hvørri eg gjørdi mig þá sekann, kvelja mig nú í minum háa aldurdómi. Eg ad vísu sæki regluliga messuna, (eins og sidur er til hjá papiskum), eg skriptast fyrir prestinum kostgjæfiliga, og geing opt til altaris, (meiníngin er uppá papiska vísu), en allt þetta hefur einga verkun hjá mér. Tárin hindrudu hann nú frá ad tala framar. Þessi vesælings madur hafdi eunnú

aldrei síed bibliuna, (þvi papistir vilja ecki láta almúgann lesa hana, þó þeir neiti ecki ad hún Guds ord sé). En sem eg gaf honum nú eina biblíu, vissi hann ecki, hvornig hann vildi audsýna sína þacklátsemi, þar honum þókti svo hjartanliga vænt um. Hann skildi svo gladur vid mig. En nockrum dogum sídar heimsókti mig einn annar madur, sem sagdi vid mig: þér hafid géfid einum manni bók, sem á heima í nærsta húsi vid mig; þér skulud ecki trúa, hvorsu óseigjanliga gladur hann er yfir þeirri gáfu. A hvorju kvoldi kallar hann min, og onnur fleiri, born, inní sitt litla húskorn, og les fyrir þeim úr bók þessari; og bornin eru svo laungunarfull ordin, ad heyra hann lesa, ad þaug valla géta bedid til kvolds, eptir lestrinum. Eg vildi fá þessa bók til kaups hjá honum, en þess var eingínn kostur, hvorsu mikid sem eg honum fyrir hana baud, og vissi eg þó ad honum lá mjog á peningum. En hann vildi heldur lída skort á ollu odru, enn missa bibliuna. Vilji nú einhvor spyrja: hvar fyrir ad madur þessi gat ecki feingid neina sanna samvitskurósemi út af því: ad fara kostgjæfiliga til messu, gánga til skrifta og altaris og fl.? Þá svarast: af því hann gjordi þad allt á pápiska vísu, nefnil. á þann hátt, ad hann vildi med þessu, líka sem sjálfur, fridþægja fyrir syndir sínar, en hafdi ecki þeckingu á, ad leita, í lifandi trú á Jesú forþénustu, nádar hjá Gudi, þá gat samvitska hans einga rósemi fundid, því ángrid fyrir syndirnar vantadi hann ecki, heldur trúna, sem einasta kémur fyrir Evangelium. En hvorttveggja verdur ad fylgjast ad, hjá hvorjum þeim er sanna umvendun gjora vill. Angur út af syndunum, fyrir utan trúna, gétur leidt til orvæntingar; en trúin, án

alls ángurs — sem tídum er merki til þess, ad hún daud er — verdur opt ad oftrausti og andvaraleysi. Vid hvorutveggju þessu hlýtur madur þarfyrir sig vel ad vara; og þad sídara skérid er þó þad sem flestir medal vor — sem látumst rétta trú hafa — stranda á, sér til fortøpunar. O ad allir vildu eptir þessu réttiliga hugsa!

---

Þad fjórda dæmi samaslags efnis skrifadi sami madur, sem ádur er sagt, því engelska Biblíufélagi til á þennann hátt: Hann qvadst fyrir nockrum døgum hafa talad vid einn fátækann mann, som þó var ecki pápiskur, heldur evangelisk-christinn. Hann hafdi ádur verid skólakénnari uppá landsbygdinni. Eg spurdi hann (segir bréfskrifarinn): hvørt hann ætti ecki Biblíu? Vid þetta mitt spursmál rodnadi hann; og leitadist vid ad svara mér ecki beint fram uppá spurningu mína, heldur sagdi: „eg þecki Bibliuna og hefi lesid hana.“ En sem eg spurdi hann þá enn framar: hvørt hann þá ecki á hvørjum deigi læsi i Biblíunni? sneri þessi vesæli madur sér hastarliga undan; hann nefniliga sneri andlitinu frá mér, tók vasaklút sinn, þurkadi sér um augun, og svaradi hálfgrátandi: æ kjæri Herra! þad er nú svo mikil dýrtíd; (því þetta var í dýrtídinni sem géck i Þýdskalandi árin 1816—17). Eg ansadi honum þá: satt er þad, kjæri vin! en hvad kémur dýrtíd Biblíunni vid? þá svaradi hann: „ímindid ydur: þar sem er einn húsfadir og hús fullt af bornum, og eckert er til ad lifa á, á slíkum tímum er, nockur rigsort ad hafa, dýrmætt.“ Eg ansadi: ennnú skil eg ydur ecki, hvørnig þetta

hángir saman, edur hvad þad getur komid Bibliunni vid. Þá svaradi hann: æ þegar eg hafdi ekkert til ad selja, til ad kaupa mér bjargræði fyrir, neyddist eg til ad bjóda mína Biblíu einum víssum skólakénnara, sem allareidu laungu ádur hafdi óskad ad fá hana til kaups, og í hvørs eign hún ennnú er. En optliga hefur þad nú ángrad mig, sídan eg gjørdi þad. Þannig sagdi þessi gódi madur mér frá kríngumstædum sínum; og nú var eg svo lukkuligur ad géta bætt hønum aptur missir þennann, og meddeildi hønum géfins, frá Biblíu-félaginu, þá heil. Ritníngu, móti hvørjum fjársjód hann tók med hjartanligustu þacklátsemi, og, af mér óupphvattur, lofadi, ad hann skyldi inniliga bidja til Guds, um blessun hans, yfir þá dýrmætu stiptun Biblíu-félagsins.

Af dæmum þessum sjáum vér þad, hvilíkann himneskann krapt ad heil. Ritníng hefur til ad fánga sálir manna, og umbreyta þeim til Guds, þar sem hún annars réttiliga brúkud er; hún gjørir þeim fátækn og sjúku, og af hvørsháttar mótlæti undirokudu, byrdi þeirra léttari í heimi þessum, en svíptir henni aldeilis í burtu, þá lífid er úti. En þetta á þó einasta heima hjá þeim, sem brúka hana og lesa réttiliga; lesa hana midt undir ydrunar og bænartárum og kvaki til lifanda Guds, ad sannleikur sá, sem hún kénnir, mætti sálunni innrætast, og uppfylla hana med trú, von og kjærleika. En þeir sem eiga Bibliuna og lesa hana ekki, edur ekki vilja kaupa hana, þó ad þeir géti þad, þegar hún þeim frambýdst, meiga búast vid straungum dómi; þar þad geingur nærst því, sem þeir afneiti Gudi sínum og Frelsara, og vilji ekkert med þeirra nálægd edur nád hafa; en hætt er vid ad líkt fari fyrir sumum þeirra ogsvo, sem í henni kannské lesa eitthvad endur og sinnum, en gjora þad þó ekki med því hjartalagi, sem skyldi; heldur annadhvørt sér til holdligrar skémtunar, hvad historíur hennar snertir, edur af hræsnislátum, fyrir annara augum. Gud varðveiti oss alla frá sliku sinnislagi, og afdrifum þessara, ef þeir ekki taka sønn sinnaskipti í tíma!

---

Fimmta dæmi uppá Guds ords verkun.

Einn Christniboðari í Austur-Indíum seigir svo frá: Þá eg hérum fyrir 20 árum var settur til að prédika Evangelium hér í vissum stað, kom til mín maður nockur, sem verið hafði, þar innfæddur, heiðíngi, en tekið hafði rómversk-catholsk trúarbrögð, sem pápiskir Christniboðendur höfðu útbreidt þar, uppá sína vísu. Þegar hann til mín kom, óskaði hann af mér betri uppfræðingar, um það efni, sem christna trú snerti, heldurenn sem hann feingið hafði hjá þeim catholsku. Þá var ennnú ecki búið að snúa Ritningunni á India-Lands túngumál, svo eg gat ecki vísað honum til hennar fullkomliga. Eg útvaldi þessvegna nockrar af þeim mikilvægustu Ritníngar-greinum, útlagði þær á hans mál, svovel sem eg gat, (en má þó viðurkénna, að það var ecki svo vel sem eg vildi, þar eg var ecki orðinn svo vel æfður í landsins túngumáli) og lét síðan manninn skrifa þær upp hjá sér, eptir sem eg las honum fyrir.

Eptir þetta fór hann brádliga i burtu frá mér, og eg frétti síðan eckert til hans, í mörg ár þar eptir. En nú fyrir ecki laungu síðan hefi eg komist að raun um, að þessi sami maður lét, á sinni banasæng, kalla einn geistligann, af þeirri engelsku kyrkju, til sín, til að tala við hann um andlig efni. Nú varð þessi geistligi maður þess var, sem hann átti ecki von á, að sá sjúki var mikið kunnigur Bibliunni, og hennar höfuð-lærdómum, þar þó Pápistar, sem látast Christna þá heiðnu, uppfræða þá minst í hennar sannleika, heldur eptir sínum hjátrúar reglum. Hann heyrði og á þessum sjúka manni, að hann bjóst við, að hann deya mundi, en undir eins fann hann, að hann af hjarta var orðinn inntekinn af sannleika sjálfrar Ritningarinnar, án þess að skipta sér af hjátrú Pápiskra. Nú fór sá geistligi að greinslast eptir hvörnig hann hefði gétað öðlast svo góða þeckingu, sem hann hefði, um þann sanna sáluhjálpar veg, eptir Evangelió, þá dróg maðurinn upp pappírs strimlana, á hvörja hann skrifað hafði þær Ritningargreinir,

sem eg, fyrir svo laungum tíma síðan, hafði útlagt handa honum. Sála hans hafði út af þeim dreigið sína andligu næríngu, svo leingi hann lifað hafði; og sá geistligi maður, sem við hann talaði, þóktist sannfærður um, að hann, fyrir Guðs náð út af trúnni, hefði sáluhólpinn orðið.

Þetta dæmi sannar nú það — eins og mörg önnur — hvörsu Guðs orð kroptugt er, þar sem það annars — eins og Jesús seigir — geymt er í góðfúsu og siðsömu hjarta; þar ber það opt undarligann ávörð, svo aðrir — einkum holdliga sinnaðir — skilja þar ekkert í. Því fer þá eins og mustarðskorninu, sem einn — eins og Jesús sagði í eptirlíkíngunni (Matth. 13, 31) — sáði í akur sinn, að það vór upp og varð að stóru tré, svo himinsins fuglar gátu byggt sér hreiður í greinum þess. Sæll er sá sem svoleiðis móti Guðs orði tekur, og það géta, fyrir Guðs náð, allir, hvörjum það boðað er, ef vilja: enda riður og líka á því mannanna eylíf sáluhjálp. Kappkostum það því allir í Guðs nafni, þar vér höfum, brunn þess lifanda vatns, nefniliga heil. Ritníngu, vor á meðal; svo oss, ef vér það vanrækjum, er alls eingin afsökun mögulig.

---

☞ „Evangeliskt Smárit eru að fá í Reikjavík, í Flatey á Breiðafirði, á Eyafyrði og á Reiðarfyrði ókeypis þeim, sem sjálfir þar við þeim taka; en þeir sem betalað géta, giöri svo vel: að géfa sér þecktum verðugum fátækum, svo sem 2 eður 3 skildinga virði, fyrir hvört 1 ark, sem þeir þyggja.“

---

Kaupmannahöfn 1847. Prentað hjá S. L. Möller.